Tvisvar í mánuði

# VERKALÝÐS-BLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L)

3. ÁRGANGUR 11. TBL. 5. OKTÓBER - 19. OKTÓBER

100 kr.

Gegn árásunum á marx-lenínismann

## Lifi marx-lenínisminn!

sjá leiðara

### Auðvaldið ræður ríkisvaldinu

# BERJUMST GEGN SUNDRUNGARÁRÓÐRINUM



Frá kosningu um sáttatillöguna í Miðbæjarskólanum 2. sept. s.l. Mynd: VERKALÝÐSBLAÐIÐ

## Varist undanslátt BSRB-forystunnar

Borgarablöðin og ríkisfjölmiðlarnir hafa tekið hressilega undir söng ríkisvaldsins gegn kjarabaráttu opinberra starfsmanna í Bandalagi ríkis og bæja (BSRB). Fyrir allsherjaratkvæðagreiðslu BSRB um "sáttatillögu" í kjaradeilunni, birtu blöðin langlokugrein eftir Jón Sigurðsson, ráðuneytisstjóra, þar sem hann reyndi að strá sundrungarfræjum meðal BSRB-félaga í því skyni að fá samþykki þeirra fyrir kaupránstillögu sáttasemjara. Dagblaðið "frjálsa og óháða" bætti um betur og hleypti af stokkunum greinarflokki um "fríðindi" ríkisstarfsmanna vegna matarkostnaðar þeirra í mötuneytum á vegum ríkisins. Allt þetta hefur þann tilgang einan að sundra BSRB-félögum og gera baráttu þeirra tortryggilega í augum almennings. Blaðið hvetur félaga BSRB til að mæta þessum árásum með enn meiri og betri samstöðu, auk þess að hafa vakandi auga með forystu BSRB.

Allur þorri félaga BSRB er í hópi lægst launaðasta verkafólks í landinu. Til dæmis um þetta má nefna póstmenn, sem eru einna launalægsti hópurinn innan BSRB. Gjaldkerar hjá Pósti og síma hafa kaup á bilinu 86-98 þús. á mánuði. Þessi launakjör eru auðvitað langt fyrir neðan það sem hægt er að kalla lífvænlegt, auk þess sem þau eru í mörgum tilfellum verri en kjör sambærilegra starfshópa utan BSRB. Þannig hafa t.d. gjaldkerar í bönkum, sem sambærilegir eru við gjaldkera Pósts og síma, kr. 94-111 þús. kr. á mánuði fyrir algerlega hliðstæða vinnu - sem er auðvitað í sjálfu sér engan veginn kaup til að hrópa húrra fyrir!

Sáttasemjari ríkisins hefur lagt fram "sáttatillögu" í kjaradeilu ríkisstarfsmanna, sem ber þess glögg merki að hafa verið skrifuð á borði Jóns Sigurðssonar, ráðuneytisstjóra í fjármálaráðuneytinu. Tillagan gerir ráð fyrir að lægstu launin hjá BSRB hækki um nákvæmlega ekkert - 0.0%, en síðan hækki kaupið lítil-

Framhald á bls. 3

# Verkfallsréttur iðnnema verði viðurkenndur

Nýlega átti sér stað kynning í Iðnskólanum í sambandi við iðnkynningarviku. Fyrir ókunnuga getur ástandið í iðnfræðslumálum virst þokkalegt, enda mátti draga þá ályktun af kynningunni. Sannleikurinn í þessu máli er heldur ekki þess eðlis að forráðamenn skólans, iðnfræðslumála eða iðnrekendur, fari neitt að hampa honum.

BROTIÐ Á NEMUM

En fyrir utan meingallað og úrelt iðnfræðslukerfi, er brotið á nemunum á margan hátt og það viðgengst vegna þess, hve stéttarsamtök þeirra eru veik. Aðalatriði málsins eru eftirtalin:

+ Í námssamningi stendur skýrum stöfum að meistarar skuli kosta skólagöngu lærlinga. Þetta er óvíða gert. Í þess stað eru nemar látnir skrifa undir "viðbótarsamning" þar sem þeir afsala sér þessum rétti og samþykkja að vera á samningstímanum á verkamannakaupi í stað nemakaups sem er ákveðnar prósentur af sveinskaupi og allmiklu lægra en verkamannakaup fyrstu árin. Þetta er brot á námssamningi. Samningar um annað breyta engu þar um; þeir eru í raun ólöglegir.

+ Verknámi úti á vinnustöðunum er oft mjög illa sinnt. Nemar eru á stundum látnir vera í mjög einhæfum verkum, fá enga heildaryfirsýn yfir fag sitt. Tilsögn er víða lítil sem engin o.s.frv.

+ Margir atvinnurekendur greiða ekki námsbækur iðnnema, sem þeir þó eru skyldir til. Iðnnemar verða að hefja baráttu fyrir því að þeir fái þessi atriði leiðrétt, enda eru þau brot á samningum þeirra og réttindum.

ENDURREISUM STÉTTARSAMTÖKIN

Mikilvægasta forsendan fyrir

Framhald á bls. 3

## Kyssti á vönd Brésnefs

sjá bls. 3



# Auðmenn í iðnkynningarleik

Í tilefni iðnkynningar stóð EIK(m-l) fyrir dreifingu flugrita meðal fólks á opnunardaginn í Austurstræti í Reykjavík. Þar var m.a. bent á þá falsmynd, sem atvinnurekendur og ríkisvald þeirra draga upp af "samábyrgð fólks" á uppbyggingu iðnaðarins. Þjóðin verði að standa saman um íslenskan iðnað. "Þjóðin verði að velja íslenskt" o.s.frv.

Framhald á baksíðu

## Gerum 1. des. að baráttudegi

sjá baksíðu

LESANDI VERKALÝÐSBLAÐSINS Í HRAÐFRYSTIHÚSINU Á KIRKJUSANDI UM STÖÐVANIR FRYSTIHÚSA, KJARABARÁTTUNA Á VINNUSTAÐNUM OG SVIK VERKALÝÐSFORYSTUNNAR:

# Gefum Þórunni frí

Hér á Kirkjusandi er og hefur verið mikill urgur í fólki vegna lokunar frystihúsa á Suðurlandi. Ekki er það af ástæðulausu. Verkafólk í frystihúsum byggir afkomu heimila sinna á þessari vinnu, þó svo að kaupið sé lágt. Verkafólk sem vinnur í frystihúsunum er orðið svo vant vinnunni, að það veigrar sér við að fá sér vinnu í annarri starfsgrein, eins og kom í ljós í Þorlákshöfn.

Verkafólk! Hver er hin raunverulega ástæða fyrir lokun frystihúsanna? Ég held að svarið hafi komið vel fram í 10. tbl. Verkalýðsblaðsins, þar sem segir: "Ýmis frystihús gefa ekki það sem á atvinnurekendamáli kallast "nægilegur hagnaður" og þá er hagkvæmast að loka þeim án tillits til verkafólksins og senda togarana í sölutúra til útlanda". Þetta er kjarni málsins. En samt hækkaði söluverðmæti sjávarafurða í Bandaríkjunum um 50% (12 milljarða króna). Þetta kemur ekki heim og saman við væl og krókódílatár atvinnurekenda vegna "taps" frystihúsa.

Það sem þeir vilja er gengisfelling. Og hvað táknar hún? Jú, við verðum að bera enn stærri byrðar af kreppu auðvaldsins. Kaupmáttur mun minnka enn meira (og hefur hann þó minnkað mikið síðan í júnísamningunum síðustu).

En hver eru þá viðbrögð svokallaðra "forystumanna verkalýðsins"? Jú, ámátlegt væl og "harðorð" mótmæli. Þó með þeirri undantekningu að verkalýðsfélagið Hveragerði skoraði á verkafólk Meitilsins að mæta ekki til vinnu þegar húsið var opnað á ný.

Hvað getum við gert? Mörgu verkafólki er það ljóst, t. d. í Verkakvennafélaginu Framsókn og Dagsbrún, að forystumenn þeirra eru ekki baráttu- og verkalýðssinnar, heldur þjónar atvinnurekenda í verkalýðsfélögunum. Því er okkar eina svar að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum, m.a. skipta um forystumenn og setja baráttusinna í staðinn og taka upp lýðræðislegri starfshætti.

Hér á Kirkjusandi er megn óánægja meðal verkakvenna með Þórunni Valdimarsdóttur, formann Framsóknar, enda verður hún tæplega sökuð um að vera baráttu- og verkalýðssinni. Hún er stéttasamvinnupáfi af bestu gerð og situr í bankaráði Alþýðubankans og stjórn

Framhald á bls. 3




# UR MARX-LENÍNISMINN!

Það vekur athygli að ýmis málgögn auðstéttarinnar, s.s. Vísir, Dagblaðið og Morgunblaðið, hafa undanfarið helgað leiðara sína skrifum um marxismann. Að sjálfsögðu er það ekki tilgangur þessara skrifa að útbreiða marxismann,heldur rægja hann og rangfæra.

Auðstéttin óttast marxismann. Marxisminn er fræðikenning verkalýðsstéttarinnar sem - eins og Marx komst að orði - "verður að efnislegu valdi þegar hún nær tökum á lýðnum".

Það er þetta sem borgarastéttin óttast - og sá ótti er ekki ástæðulaus. Um allan heim harðnar stéttabaráttan. Verkalýðurinn fylkir sér í auknum mæli um hina marx-lenínísku flokka og samtök. Marx-lenínisminn mun óhjákvæmilega festa rætur meðal fjöldans og vísa honum veginn til bættra lífskjara, verkalýðsbyltingar, og sósíalísks þjóðfélags.

Í skrifum borgarapressunnar um marxismann er mikið talað um kreddur - að marxisminn sé trúarkredda sem hafi gengið sér til húðar. En marxisminn er engin kredda, heldur þjóðfélagsvísindi til greiningar á þjóðfélaginu, leiðsögn í starfi kommúnista og verkalýðsstéttarinnar í sókn og vörn í stéttabaráttunni. Marxisminn hefur margoft sannað gildi sitt í kjara- og byltingarbaráttu alþýðunnar - í Rússlandi, Kína, Albaníu og víðar.

Ýmsir sem kenna sig við marxisma reyna þó að gera hann að trúarbrögðum með kreddufestu og bókstafstrú. Enn aðrir endurskoða og rangfæra marxismann undir yfirskyni andstöðu við kreddufestu. En kreddufesta og endurskoðunarstefna eiga ekkert skylt við marxismann

Lesendum Verkalýðsblaðsins mun kunnugt um að EIK(m-l) líta ekki á Sovétríkin og fylgiríki þeirra sem sósíalísk. Þvert á móti álíta EIK(m-l) að með valdatöku Krjúsoff-klíkunnar í Sovétríkjunum á 6. áratugnum hafi auðvaldsþjóðfélagið verið endurreist þar, og hin nýja yfirstétt stjórni nú með fasísku alræði. Auðvaldið reynir að sannfæra alþýðu um að í Sovétríkjunum sé kommúnismi og reyna þannig að sverta kommúnismann í augum hennar.

Á hinn bóginn þegir auðvaldið yfir sigrum verkalýðs og alþýðu í raunverulega sósíalískum ríkjum eins eins og Kína og Albaníu, þar sem fjöldinn hefur með marx-lenínismann að vopni, sent auðvaldsþjóðfélagið á sorphaugana, en byggir upp þjóðfélag í eigin þágu.

Auðvaldið rægir og svívirðir alla ávinninga alþýðunnar. Nægir í því sambandi að benda á hatursáróður gegn Kampucheu (Kambódíu) og fall "fjórmenninganna" í Kína, sem auðvaldspressan útnefndi sem "hina sönnu fulltrúa stefnu Maós".

Lönd vilja sjálfstæði. Þjóðir vilja frelsi, alþýða vill byltingu. Sú þróun sem þessu ástandi fylgir er auðvaldinu ekki að skapi. Auðvaldið óttast það afl sem framkvæma mun þetta verk - alþýðu, meðvitaða um sögulegt hlutverk sitt að steypa auðvaldinu - alþýðu undir forystu marx-lenínísks kommúnistaflokks.

Og þrátt fyrir allt tal um að marxisminn sé kredda, úr sér gengin, mun fjöldinn hafna þeirri kreddu að úr sér gengið auðvaldsþjóðfélag - hrjáð af efnahagskreppu, verðbólgu, atvinnuleysi, o.s.frv. eigi framtíð fyrir sér.

Lygaþvaður og hálfsannleikur ("Hálfsannleikur oftast er, óhrekjandi lygi") auðvaldsins um marxismann getur aldrei bjargað lífi þess. Ekki héldur þó því berist hjálp liðhlaupa úr byltingarliðinu, sem springa vegna offylli af "þekkingu á innviðum marxískrar hreyfingar".

Lifi marx-lenínisminn - kenningar Maó Tsetungs!

# ÚR STARFINU

## Stuðningsdeild EIK(m-l) í Oslo

Þann 17. september var stofnuð af Íslendingum búsettum í Osló stuðningsdeild EIK(m-l).

Stuðningsdeildina skipar fólk sem er sammála EIK(m-l) í ákveðnum málum og sem hefur áhuga á að kynna sér stefnu og starf samtakanna betur. Stefnt mun að því að fara í gegn um leshring EIK (m-l) í marx-lenínismanum og að ræða þau mál sem efst eru á baugi í stéttabaráttunni á hverjum tíma og stöðu EIK(m-l) til þeirra.

Stuðningsdeildin hvetur alla þá sem áhuga hafa á starfi hennar, að snúa sér til Steinunnar Hjartardóttur, Schultzgt 7, sími 694450 (símavakt milli kl. 17 og 20.30).

Ætlunin er að leshringur fari af stað mjög fljótlega og ættu þeir sem hafa áhuga á að vera með í honum, að tala við Steinunni sem fyrst.

EIK(m-l), Osló.

# Kveðja til KFK

Til miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína og forsætisráðs Alþýðuþingsins.

Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) á Íslandi senda hugheilar kveðjur í tilefni af 28 ára afmæli Kínverska alþýðulýðveldisins. Við hyllum framfarir ykkar og árangur og sigra sem hin kínverska þjóð hefur unnið undir leiðsögn öreiganna, kommúnistaflokksins, hins mikla formanns Mao Tsetungs og nú Hua Kuo-fengs formanns.

Lengi lifi Alþýðulýðveldið Kína!

Lengi lifi alþjóðahyggja öreiganna!

Fyrir hönd miðstjórnar,
Ari T. Guðmundsson

# Opið bréf nr. 3

Til félaga "KFÍ/ML":

Þeir sem hafa að markmiði að efla marx-lenínísku hreyfinguna á Íslandi verða að viðurkenna að starf þeirra innan ramma einna samtaka er höfuðnauðsyn.

Þið hafið nú haldið fast við að:

- viðurkenna ekki að eining um undirstöðuatriði marx-lenínismans, eining um skipulag kommúnistaflokks, eining um mikilvæg baráttumál og algjör sjálfsgagnrýni á fortíðina séu allt forsendur sameiningar EIK(m-l) og ykkar. Samtímis hafið þið viðurkennt að forveri flokksins, KSML, hafi haft alranga stefnu í flestum eða öllum baráttumálum.

- stofna og viðhalda sífellt fámennari samtökum undir nafninu "Kommúnistaflokkur Íslands/ML", án þess að ofangreindum atriðum og verkefnum sameiningar sé fullnægt.

- svara ekki sameiningargrundvelli EIK(m-l) til ykkar frá því í sept. 1976, né heldur 2 opnum bréfum til ykkar.

Í ljósi alls þessa spyrjum við: Hvernig getið þið rætt um "sameiningu marx-lenínista" og "klofningsstarf EIK(m-l)" öðru vísi en að gera ykkur sek samtímis um svörtustu hentistefnu?

EIK(m-l) hafa nú gefið ykkur endanlegan frest til þess að gera upp hug ykkar. Er sá frestur miðaður við 1. nóvember næstkomandi, en þá er liðið rúmt eitt ár frá tilboði okkar um sameiningu samtakanna. Þið hafið því þrjár vikur enn.

f.h.Einingarsamtaka kommúnista(marx-lenínista)
Framkvæmdanefnd miðstjórnar.

# Samtíningur

## Liðhlaupi biður um syndaaflausn

Það eru margir til kallaðir þegar reynt er að "afsanna" marxismann. Sumir gera það frá hægri og eru yfirlýstir fjandmenn sósíalismans frá upphafi. Aðrir eru faglegari og þykjast gagnrýna hann "innan frá" - birtast sem nokkurs konar afturbatapíkur eða glataðir synir skynseminnar; menn sem hafa smakkað á göróttum drykk Marx gamla, misst áttirnar um stund en náð að átta sig og ganga nú fram brynjaðir mikilli reynslu. Frammi fyrir alþjóð skýra þessir "fyrrverandi kommúnistar" frá sinni reynslu og þiggja syndaaflausn að launum. Saga verkalýðsbaráttunnar er og verður full af svona lúsavillutilraunum. Nýlegt dæmi hérlendis eru furðuskrif Guðbrands Magnússonar prentara á Akureyri, fyrrum félaga í "KSML" og "KFÍ/ML", sem birtust í Dagblaðinu 27. sept.

Að hætti þeirra sem ekki geta gengið hreint til verks, grípur Guðbrandur til lúmskra lyga og gamalla fordóma. Tökum sem dæmi eftirfarandi fullyrðingu hans: "Íslenskir maóistar hafa varla verið búnir að ljúka lofsöngnum yfir hinum eða þessum Kínverjanum þegar hann er aftur fallinn í ónáð". Hvað stendur eftir af þessari fullyrðingu, þegar málið hefur verið kannað? Ekkert - nákvæmlega ekkert! Þetta er bull sem ætlað er að telja fólki trú um að kommúnistar séu fjarstýrðir og ófærir um að taka afstöðu upp á eigin spýtur. Guðbrandur er ekki fyrstur til að ryðjast fram með svona tilbúning, en hann þykist hafa þá þekkingu á marxisma sem til þarf svo að orð hans fái réttan þunga. En sá sem hefur lygina eina að vopni verður ætíð fundinn léttvægur hvernig sem hann spriklar í fjölmiðlum borgarastéttarinnar.

Tilgangur Guðbrands er sá einn að vinna kommúnískri hreyfingu skaða með þessari óheiðarlegu raggeitarárás.

málum er íslensk framleiðslustefna. Baráttan gegn innrás erlends fjármagns í atvinnulíf á Íslandi verður því aðeins sigursæl, að hér takist að byggja upp á fjölmörgum sviðum myndarlegan iðnað okkar Íslendinga sjálfra. Besta svarið við ásókn erlendra auðhringa er stórefling íslensks iðnaðar.
Oft er tómahljóð í gjaldeyriskassa

Hvaðan skyldi þessi úrklippa með óskafyrirheiti atvinnurekenda vera? Hvaða flokkur skyldi vilja að atvinnurekendur og verkalýður ("Íslendingar") leggist á eitt við að styrkja undirstöður og arðrán auðvaldskerfisins? Hvaða maður er það sem reynir að blekkja fólk til að trúa því að barátta þess gegn atvinnurekendum fyrir launahækkun af gróða þeirra og algjörum yfirráðum yfir framleiðslunni og barátta gegn auðhringum sé lítil vörn?

- Er það Morgunblaðið, Sjálfstæðisflokkurinn og Geir Hallgrímsson?

Nei, úrklippan er úr leiðara Þjóðviljans. Höfundur er Kjartan ritstjóri og frambjóðandi til þings Ólafsson!

## Hvers vegna feluleikur?

EIK(m-l) lýstu stuðningi við Chilefundinn 11. september, þó að það væri ekki látið koma fram í auglýsingum fundarboðenda. Þegar komið var að máli við EIK(m-l) vegna fundarins, var sagt að einstaklingar stæðu að honum, en ekki félagasamtök. Síðan fór að kvisast að svokölluð "Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu" (samtök Sovétsinnaðra Alþýðubandalags- og Fylkingarmanna) stæðu fyrir fundinum. Þessu neituðu fundarboðendur oftar en einu sinni áður en fundurinn var haldinn. Í auglýsingu í Þjóðviljanum skömmu eftir hann er hins vegar greint frá því að "Baráttuhreyfingin" hafi staðið fyrir fundinum og ekki sagt einu orði frá stuðningsyfirlýsingum EIK(m-l) og annarra við hann. Þessi vinnubrögð eru forkastanleg og EIK (m-l) krefjast þess að fundarboðendur geri grein fyrir ástæðunum fyrir þessu.

# Styðjum alþýðufylkingu Chile

Sunnudaginn 11. sept. var haldinn fundur um Chile í Félagsstofnun stúdenta í tilefni af því að 4 ár voru þá liðin frá valdaráni herforingjaklíkunnar þar. Fundurinn var fjölsóttur, en mjög daufur. Hann var ekki helgaður baráttu alþýðunnar í Chile fyrir að kollvarpa fasismanum, heldur var hann helgaður minningunni um alþýðubaráttuna sem mistókst. Sýnd var kvikmynd sem lýsti aðdraganda valdaránsins. Mynd þessi ætti erindi í sjónvarpið og þá með ísl. texta,en hún var of langdregin og byggðist of mikið upp á ensku tali til að henta fyrir slíkan fund.

Útlagi frá Chile sagði frá valdaráninu eins og það kom henni fyrir sjónir og lýsti hörmungunum sem það kallaði yfir fjölskyldu hennar. Faðir hennar var handtekinn og situr enn í fangelsi, en hún sjálf komst úr landi um síðir. Hún var í skóla fyrir valdaránið og starfaði þá í hópi tengdum alþýðufylkingunni. Hún lýsti átakanlega því öngþveiti sem skapaðist meðal baráttufólks þegar fasistarnir hófu árásir sínar. Fólk var vopnlaust og margir kunnu lítið til skæruhernaðar og þar var ekki til nein áætlun um viðbrögð gegn yfirvofandi árásum fasískra afla. Allende lagði trúnað á falskenningar Krustjovs og Brésnefs og annarra endurskoð[illegible]arsinna, um friðsamlega leið [illegible] sósíalisma. Það hafði afdrifaríkar afleiðingar í för með sér fyrir alþýðu Chile, sem hafði hafið djarfa sókn í baráttunni fyrir betra þjóðfélagi, sósíalismanum.

Marx-lenínistar í Chile börðust fyrir vopnun alþýðunnar. Þeir voru viðbúnir árás fasistanna og gátu haldið sinni starfsemi áfram neðanjarðar og gera enn. Nú er verið að byggja upp nýja alþýðufylkingu í Chile, Frente del pueblo, eins og sagt hefur verið frá áður hér í blaðinu. Þessa baráttu ber okkur að styðja eftir mætti. Frente del pueblo er vonarglæta alþýðu Chile nú!

Á Chile-fundinum á dögunum var safnað fé til hjálparstarfs og fangahjálpar í Chile, sem er á vegum kaþólsku kirkjunnar þar, og er það gott og blessað svo langt sem það nær. En ef alþýðan í Chile á að losna undan oki fasismans og heimsvaldastefnunnar, þarf fyrst og fremst að styðja Frente del pueblo!



## LESENDABRÉF




## PRENTVÉLARSÖFNUNIN

Okkur varð heldur á í messunni við umbrot síðasta tölublaðs. Eins og lesendur hafa vafalaust tekið eftir, var mikill fjöldi villna í blaðinu, stórar og smáar. Þetta er að kenna frjálshyggju við blaðvinnsluna, sem við nú höfum ákveðið að leggja til atlögu við og leiðrétta. Alvarleg villa var og í frásögninni af söfnun fyrir préntsmiðju Verkalýðsblaðsins. Þar var söfnunin sögð vera komin upp í 490 þús. kr., en átti að vera 410 þús. Nú er söfnunin komin í tæp 440 þús. Ritnefnd gerir sjálfsgagnrýni vegna slælegs starfs síns og biður lesendur velvirðingar.

# Austurför Geirs: Kyssti á vönd Brésnefs

Undanfarið hafa íslenskir ráðherrar gert víðreist bæði til austurs og vesturs. Einar Ágústsson fór til Bandaríkjanna og tók undir með þarlendum heimsvaldasinnum - en Geir fór í austurveg og tók undir blekkingavaðal sósíalheimsvaldasinnanna. Afstaða Einars og Geirs afhjúpar þá staðreynd að íslensk borgarastétt er reiðubúin til að krjúpa í allar áttir ef hún telur það þjóna gróðasöfnun sinni.



Geir Hallgrímsson í kvöldverðarveizlu Kosygins:

„Stefna íslenzku ríkisstjórnarinnar að Helsinki-samþykktin verði í heiðri höfð"

„Á Íslandi nýtur hver einstaklingur fullra mannréttinda"

Grimmt vígbúnaðarkapphlaup á sér stað milli risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Útþensla og yfirgangur þessara tveggja risa birtist í hverju heimshorni, þeir reyna að komast í drottnunarstöðu gagnvart öllum þjóðum ýmist með blíðmælgi, hótunum eða beinum árásum.

Á sama hátt og Hitler á sínum tíma gala þessi drottnunargjörnu risaveldi hátt um friðarvilja sinn samtímis því sem stríðsundirbúningur eykst. Helsinkisamþykktin og Belgrad-ráðstefnan eru eitt skýrasta dæmið um þennan blekkingarleik heimsvaldasinna. Í Helsinki-samþykktinni er mikil síbylja um "slökun spennu", samkomulag þjóða, afvopnun, gagnkvæma virðingu fyrir sjálfstæði landa o.fl. o.fl.

Allar eru yfirlýsingarnar í æpandi mótsögn við það sem í rauninni á sér stað. Það er því mikilvægt atriði í baráttunni gegn stríðshættunni, að afhjúpa svona blekkingarhjal - hvaðan sem það kemur.

RISAVELDAÞJÓNKUN

För Geirs til Sovétríkjanna á dögunum og þær ræður og yfirlýsingar sem hann hefur látið frá sér fara sýna, að hann er ekki maður sem íslenska þjóðin getur treyst fyrir hagsmunum sínum. Í Moskvu sagði Geir Hallgrímsson m.a. að "stefna íslensku ríkisstjórnarinnar sé að Helsinki-samþykktin verði í heiðri höfð". Þar með gerist Geir boðberi blekkinganna - því að það voru einmitt risaveldin tvö sem dúkuðu borð í Helsinki og buðu til veislu. Tilgangurinn var eingöngu sá að telja alþýðu heimsins trú um einlægan vilja til friðar hjá mestu morðtólaframleiðanda heims.

Geir er fulltrúi þeirra afla í íslenskum stjórnmálum sem binda trúss sitt við annað risaveldið, þ.e. Bandaríkin. Þeir eru reiðubúnir til að selja sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar í hendur erlendum yfirgangsöflum og taka undir með fölskum áróðri sem er hættulegur sjálfstæði þjóðarinnar!

FAGURGALI RISAVELDANNA ER LÍFSHÆTTULEGUR!

Þeir sem leggja trúnað á friðarvilja heimsvaldasinna, falla í gildruna. Í stað árvekni kemur undirgefni og þá seilast heimsveldin til áhrifa. Afstaða Sjálfstæðisflokksins til öryggismála þjóðarinnar er hættuleg - flokkurinn liggur hundflatur fyrir bandarískum hagsmunum og heldur uppi gerfiandstöðu gagnvart Sovétríkjunum. Í hvert sinn sem Morgunblaðið fjallar um útþenslu heimsvaldasinnanna sovésku, þá er það fyrst og fremst ætlað til að sannfæra fólk um ágæti bandarísku heimsvaldastefnunnar og til árása á kommúnista. Íslensk alþýða getur hvorki treyst bandarískum heimsvaldasinnum né sovéskum - hún verður að treysta á sinn eigin mátt.

Allir hafa íslensku þingflokkarnir hættulega stefnu í öryggismálum Íslands. Þeir benda ekki á þá hættu sem stafar af yfirráðastefnu risaveldanna og stríðsundirbúningi þeirra. Þeir eru allir reiðubúnir til að kyssa á vendi heimsvaldasinna, telji þeir að viðskiptahagsmunum og gróða íslenska auðvaldsins sé borgið með því.

utan úr heimi

löND vilja sjálfstæði
þjóðir vilja frelsi
alþýðan vill byltingu

# Síonistar ráðast inn í Suður-Libanon

Innrás herja síonista í Suður-Líbanon síðustu daga er í beinu framhaldi af útþenslustefnu Ísraelsríkis. Lengi hafa síonistar notað falangista og öfl þeim hliðholl í eiginhagsmunaskyni. Þeir hafa stutt falangista í borgarastyrjöldinni á ýmsan hátt, látið þá hafa vopn, peninga, hernaðarþjálfun, o.fl. Síonistarnir hafa í stuttu máli látið falangistanna hafa allt nema beina hernaðaraðstoð, þar til nú. En þrátt fyrir harðar árásir í Suður-Líbanon að undanförnu, hefur palestínsku frelsishreyfingunni tekist að hrinda þeim af höndum sér.

Vegna árása falangista og sionista hefur stór hluti íbúa Suður-Líbanon flúið norður á bóginn, burt frá bardagasvæðum. Þetta hefur hins vegar rutt brautina fyrir mögulegri hertöku sionista á Suður-Líbanon, undir því yfirskyni að Ísrael verði að tryggja landamæri sín.

Hinar ýmsu "friðartillögur" sem komið hafa fram síðustu mánuði frá Bandaríkjunum og sionistum hafa haft tvennan tilgang: 1) að berja niður Frelsishreyfingu palestínuaraba og gera hana óskaðlega; 2) að kljúfa hinn arabíska heim og ala á tálvonum um Bandaríkin.

En það hefur mistekist að berja niður frelsishreyfinguna. PLO hefur hvergi hvikað frá alþýðustríðinu sem leið til frelsunar Palestínu. Heimsvaldastefnunni og sionismanum hefur heldur ekki tekist að kljúfa hinn arabiska heim: ekkert arabaríkjanna hefur samþykkt "friðarlausn" sem felur í sér að réttur Palestínuaraba til heimalands síns, Palestínu, sé fyrir borð borinn. Þetta er orsök þess að hernaðaríhlutun er á ný orðin mikilvægasta "utanríkisstefna" sionista.

Bandaríska heimsvaldastefnan pumpar stöðugt dollurum og vopnum í Ísrael. En hitt risaveldið, Sovétríkin, eykur stöðugt "óopinber tengsl" sín við sionista og sendinefndum þeirra í Ísrael fjölgar stöðugt. Í viðbót sjá Sovétríkin stríðsvél sionista fyrir mannafla; síðasta ár fluttust 21.000 manns frá Sovétríkjunum til Ísraels.

Albanska fréttastofan ATA skýrði frá því þann 10. sept. að leppríki Sovétríkjanna, Búlgaría, og sionistaríkið Ísrael, hafi komist að leynilegu samkomulagi um hernaðarsamvinnu.

Þrátt fyrir að Sovétríkin hafi verið meira og meira afhjúpuð í mið-austurlöndum, þá halda sósíalheimsvaldasinnar stöðugt áfram tilraunum sínum til íhlutunar þar.



FÓRNARLÖMB SPRENGJUÁRASA SIONISTA. ÍSRAELSKI FLUGHERINN RÆÐUR YFIR FULLKOMNUM MORÐTÓLABÚNAÐI, SEM M.A. BANDARÍSKIR OG FRANSKIR HEIMSVALDASINNAR HAFA LÁTIÐ ÞEIM Í TÉ. MEÐAL ANNARS MÁ NEFNA NAPALMSPRENGJUNA ILLRÆMDU, SEM SIONISTAR HAFA NOTAÐ Í MIKLUM MÆLI TIL ÁRASA Á BÚÐIR OG ÞORP PALESTÍNUARABA.

# BSRB ...

Framhald af forsíðu

lega þegar ofar dregur í launastiganum. "Sáttatillagan" er auðvitað fráleit og hrein ögrun við félaga BSRB. Enda má gera ráð fyrir að almennir félagar hafi hafnað henni í atkvæðagreiðslu BSRB fyrstu daga októbermánaðar (Verkalýðsblaðið var unnið áður en úrslit hennar lágu fyrir).

GEGN STÉTTASAMVINNUSTEFNUNNI!

Kröfugerð BSRB hljóðar upp á 55% kauphækkun á lægstu laun og 17% á þau hæstu. Fátt bendir til þess að forysta BSRB muni standa á henni ( og hefur líklega þegar gefið drjúgum eftir á bak við tjöldin!). Boðað hefur verið verkfall opinberra starfsmanna, en heyrst hefur að þegar séu uppi raddir í röðum forystuliðs BSRB um að fara ekki út í hörkuna strax. Þetta ætti varla að koma á óvart, sé litið á stöðu sumra forystumanna BSRB. Til dæmis er formaðurinn, Kristján Thorlacius, deildarstjóri í fjármálaráðuneytinu, og ætti samkvæmt því fremur að sitja við hlið Jóns Sigurðssonar í samningunum, fremur en að koma fram sem forystumaður eins af stærstu verkalýðsfélögunum á landinu. Þar á hann ekkert erindi.

Við almennan félagsmann í BSRB segjum við því:

+ Berjumst gegn stéttasamvinnu og undanslætti BSRB-forystunnar!
+ Fylgjum kröfugerðinni fast eftir með skipulagðri baráttu - vinnustöðvunum á hverjum vinnustað!
+ Búum sjálf til leikreglur fyrir kjarabaráttuna!

# Verkfallsréttur ...

Framhald af forsíðu

því að nemar nái árangri í baráttu sinni, er að þeir treysti samtakamátt sinn, taki til við að endurreisa sín hagsmunasamtök, iðnnemafélögin, sem raunveruleg baráttutæki.

Ástandið í dag er ekki upp á marga fiska. Víðast eru ekki haldnir fundir, jafnvel ekki um kjarasamningana (!). Iðnnemasambandið er látið "sjá um" málefni iðnnemahreyfingarinnar. Sambandið hefur í einu og öllu beygt sig undir forráð ASÍ-forystunnar og látið samninganefnd hennar hafa umboð sitt. Þetta hefur sambandið gert, án þess að hafa, a.m.k. í mörgum tilvikum, umboð iðnnemafélaganna.

Baráttufúsir iðnnemar!

Við svo búið má ekki standa. Takið ykkur saman og ræðið hvernig þið getið best staðið að uppbyggingunni í ykkar félögum. Krefjist þess síðan, að fundir verði haldnir í félögunum. Það er til dæmis hægt að gera með því að safna undirskriftum á lista með kröfum um fund og afhenda hann stjórn viðkomandi félags. Þá er nauðsynlegt að fá fram umræður um brýnustu hagsmunamálin og félaginu er nauðsynlegt að setja sér starfsskrá sem tekur til mikilvægustu verkefna og baráttumála.

Endurreisn stéttarsamtakanna er mikilvægasta forsenda þess að hægt sé að hefja árangursríka baráttu fyrir hagsmunum iðnnema.

MIKILVÆGUSTU BARÁTTUMÁLIN

Í dag er mikilvægast að verja þau réttindi sem við þegar höfum, koma í veg fyrir að námssamningurinn sé brotinn, sbr. hér að framan. Önnur mikilvæg mál eru til dæmis þessi:

1. Iðnnemar fái verkfallsréttinn viðurkenndan að fullu og öllu.

2. Iðnmenntun verði bætt, komið verði upp námsskrá fyrir hinar einstöku iðngreinar og verklegt nám meira sett inn í skólana.

3. Á námstíma verði miðað við dagvinnu, eftir- og næturvinna verði metin sem stytting á námstímanum.

Án efa eru mörg önnur mál sem þarf að taka upp og baráttumálin geta verið mismunandi eftir iðngreinum. En mikilvægast er að hefja baráttuna, rífa hana upp úr því sinnuleysi og lægð sem hún nú er í.

Iðnnemar, hefjumst handa.

Iðnnemi í Reykjavík




# ÁSKRIFTASÖFNUNIN

Áskriftarherferð Verkalýðsblaðsins, "100 nýir áskrifendur fram til 1. september", lauk um mánaðarmótin ágúst/ september. Höfðu þá safnast 109 nýir áskrifendur og markinu var þar með náð og vel það! Þessi áfangasigur blaðsins er því afar mikilvægur og nýju áskrifendurnir eru mikilvægir steinar í grunn þess húss sem við erum að reisa. En þetta þýðir þó ekki að við eigum náðuga daga framundan. Við þurfum margfallt fleiri áskrifendur, kaupendur í lausasölu og annað stuðningsfólk! Við munum því hleypa af stokkum nýrri skipulagðri áskriftasöfnun von bráðar og verður hennar getið í Verkalýðsblaðinu þegar hún byrjar.

GERIST ÁSKRIFENDUR - SENDIÐ VERKALÝÐSBLAÐINU ÁBENDINGAR, GREINAR, FRÁSAGNIR OG ALLS KYNS ANNAÐ EFNI.

# Gefum ...

Framhald af forsíðu

Lífeyrissjóða Dagsbrúnar og Framsóknar.

Strax eftir samningana í vor var ljóst að fólk sem vann á flökunarvélum (og öðrum vélum) hafði verið fært niður um einn taxta með samþykki verkalýðsfélaganna. Mikil óánægja var meðal vélafólks vegna þessa. Þetta verður að laga og það strax. Ekki er hægt að bíða til samningsloka 1. des. 1978, heldur verður að berjast á vinnustöðum fyrir því að vélafólk hækki úr 3. taxta í 4. taxta.

Lesandi á Kirkjusandi

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON

Árskrift: kr. 1500
Stuðningsáskrift: kr. 2500

ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212 - 35904

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12 200 - …



Sjálfstæðisbaráttan á Íslandi hófst þegar eftir að þjóðin hafði glatað sjálfstæðinu í hendur Noregskonunga og síðar danska nýlenduveldisins.

Baráttan náði þó ekki umtalsverðum árangri fyrr en að þjóðleg öfl meðal íslenskra bænda og nýrrar borgarastéttar 19. aldar skipulögðu baráttuna með fullum stuðningi vinnandi alþýðu.

Mikilvægustu áfangar á leiðinni til sjálfstæðis voru heimastjórnin 1904 og fullveldi landsins 1918. Hinn 1. desember 1918 voru öll mál þjóðarinnar aðskilin frá dönsku krúnunni, nema utanríkismál og þjóðhöfðingjatignin.

Á millistríðsárunum 1918-1939 efldist íslenska auðvaldsskipulagið og þörf yfirstéttarinnar fyrir fullt sjálfræði þjóðarinnar varð knýjandi. Hún nýtti sér meðal annars hernám Danmerkur og undirbjó sjálfstæðisyfirlýsingu ríkisvaldsins 1944 með einhverri samvinnu við ríkisstjórnir Bandaríkjanna og Bretlands.

Verkalýðsstéttin og önnur alþýða studdi réttilega þá ákvörðun að íslenska þjóðin beitti sjálfsákvörðunarréttinum - þ.e. réttinum til ríkismyndunar og pólitísks sjálfstæðis.

Við stofnun lýðveldisins Íslands lauk skeiði borgaralegrar sjálfstæðisbaráttu undir forystu íslenskrar auðstéttar. Með því hvarf framsækið hlutverk borgarastéttarinnar, en við tók endanlega skeið baráttu fyrir sósíalisma og varðveislu sjálfsákvörðunarréttarins. Borgarastéttin er nú afturhaldssinnuð og selur sjálfræði þjóðarinnar fyrir hagnað sinn. Það er verkalýðurinn sem leiðir framsækna baráttu.

# Gerum 1. desember að baráttudegi!

## BARÁTTAN Á UNDANFÖRNUM ÁRUM

Af innganginum sést að það er í raun mjög blekkjandi að tala um sjálfstæðisbaráttu íslensku þjóðarinnar nú. Ísland er sjálfstætt auðvaldsríki sem hefur náð einokunar- og drottnunarstigi. Einokunarauðvaldið arðrænir erlendan verkalýð í mörgum löndum heims, t.d. í Bandaríkjunum, Lúxemburg, Bahama, Nígeríu og Uruguay.

Rétt er hins vegar að tala um baráttu til verndar því sjálfræði sem þjóðin hefur nú. Þá baráttu heyr ekki öll þjóðin, þar sem auðstéttin selur sjálfræðið fyrir gróðavon, - heldur er það aðeins verkalýður og alþýða til sjávar og sveita sem ver sjálfræðið í raun.

Þetta sést m.a. á fiskveiði- og stóriðjumálum. Íslenska ríkisvaldið, sem er á þessu stigi ávallt tæki ráðandi stéttar óháð ríkisstjórnum, færði út fiskveiðilögsöguna. Í báðum tilvikum voru þó fiskimiðin föl erlendum auðhringum og eru enn. Erlenda rányrkjan hefur minnkað en er þó enn viðhaldið vegna tollasamninga við Efnahagsbandalagið, og vegna NATO-hagsmuna. Síðan hefur íslensk rányrkja stórútgerðarinnar og SÍS/SH-hringanna komið í stað þess sem unnið var af erlendum aðilum.

En hvernig brást alþýðan við? Þorri vinnandi fólks var andsnúinn hvers kyns samningum og allri rányrkju. Þessi þjóðfélagsöfl vildu þannig verja réttan málstað. S.l. ár hefur yfirstéttin orðið að fá nokkurn aukagróða til að reyna að rétta við lélegan landsfjárhag og tryggja sig gegn minnkandi sjávarafla. Í því skyni hleypir hún erlendum auðhringum, bandarískum og norskum inn í landið. Sífellt stærri hluti iðnaðar á Íslandi er þannig í höndum erlendra fyrirtækja. Lítið stoðar að kalla þetta "samvinnu", "eðlilega þróun" og "eflingu þjóðarhags" - þetta er einfaldlega útsala á sjálfræði þjóðarinnar.

Gegn þessu hafa eiginleg stjórnmálasamtök verkalýðsins og einstaklingar staðið, sem og stéttarfélög alþýðunnar (sum hver). Það sýnir enn hver gerir rétt í þessum efnum - verkalýðsstéttin og önnur vinnandi alþýða.

## ÞÁTTUR NATO

Gangur heimsmála hefur sýnt að Bandaríkin og NATO hafa hvergi varið hagsmuni þjóða og alþýðu gegn heimsvaldaásælni, þvert á móti. Annað hvort hefur þetta afturhald beinlínis staðið að baki morðum, valdaránum og styrjöldum eða beitt þrýstingi svo sem í landhelgismálinu. NATO mun því ekki verja sjálfræði Íslands heldur skerða það eða nota í þágu yfirstéttanna - jafnvel aðstoða íslenska auðstétt til að berja á alþýðunni.

Heræfingar NATO sýna nú að bandalagið gerir ráð fyrir því að láta nyrsta hluta Evrópu í hendur árásarherja Varsjárbandalagsins í styrjöld til þess að geta stöðvað innrás í Evrópu með kjarnorkuvopnum. Varnarlínan liggur frá Schlesvig til Holstein (syðst við Danmörku) um miðjan Noreg, Svíþjóð og Austur-Evrópu. Aðild að NATO er því röng og hættuleg. Gegn henni verður að berjast.

## ÞÁTTUR SOVÉTRÍKJANNA

Sovétríkin breyttust úr sósíalísku ríki í ríkiseinokunarauðvaldsríki á 6. áratug aldarinnar. Slík voru einfaldlega úrslit stéttabaráttunnar í því landi. Sovétríkin breyttust í hættulegt risaveldi sem er, ásamt Bandaríkjunum, hættulegasti óvinur alþýðu heimsins í heild. Ójöfn þróun þessara risa afturhaldsins kallar á stríð til að skipta upp heiminum í ný áhrifasvæði. Sovétríkin skortir nýtt og stærra lífsrými, líkt og Hitlers-Þýskaland fyrir 2. heimsstyrjöldina, en Bandaríkin eru víða að missa fótanna á alþjóðavettvangi.

Sovétríkin beita Ísland pólitískum og efnahagslegum þrýstingi. Þau okra á olíunni, hafa breytt vöruskiptaverslun að hluta í gjaldeyrisverslun, hafa látið ísl. ríkið safna milljarðaskuldum í Sovét, kaupa vörur héðan á undirboðsverði, æfa herárásir á landið (Okeanæfingin 1975), beittu sér gegn útfærslum fiskveiðilögsögunnar í 50 og 200 sjómílur o.fl.

Þessu kyngir ísl. yfirstéttin enda háð viðskiptatengslunum. SÍS-herrarnir, Tíminn og jafnvel Geir bukta sig og beygja.

Bæði stríðshættan og ásælni Sovétríkjanna hér kalla á baráttu gegn Sovétríkjunum og handlöngurum þeirra hér á landi.

# Landsráðstefna herstöðvaandstæðinga

# Gegn báðum risaveldunum

Landsráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga verður haldin 16. og 17. október n.k. Þar á að endurskoða lög og stefnuskrá samtakanna og ræða starfið framundan.

Aðalvillur Samtakanna, sem gera þau lítt fallin til þess að vekja, skipuleggja og efla sívirka fjöldabaráttu, eru öðru fremur tvenns konar.

Annars vegar vantar samtökin fjöldastefnuna, þ.e. að samfylkja fjöldanum með starfi meðal hans og þá þannig að einstökum pólitískum samtökum sé ekki gert kleift að flagga sínum sérskoðunum í aðgerðum á vegum samtakanna. Hins vegar hafa SH ekki refjalausa baráttu gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, á stefnuskrá sinni.

## FJÖLDASTEFNAN

Hver herstöðvaandstæðingur hlýtur að hafa spurt sig þeirrar spurningar af hverju Samtök herstöðvaandstæðinga hafa tvisvar hætt störfum og í raun varla náð lengra en að viðhalda andstöðu við herinn og NATO frá upphafi. Fáar en viðamiklar aðgerðir SH safna að vísu saman stórum hópi í hvert sinn, venjulega eftir langt hlé, en síðan virðist svo sem þorri herstöðvaandstæðinga missi áhuganna fyrir samtökunum, smám saman.

Helsta einkennið á starfi SH er getuleysið til að vinna upp samfellda baráttu sem þokar baráttumálinu áfram, ásamt ofurtrausti á þingræðisbaráttu fyrir málefninu í gegn um Alþýðubandalagið.

Kommúnistar skýra þetta með því að SH skorti fjöldastefnu, enda hafa borgaralegir "sósíalistar" forystu fyrir samtökunum.

Nokkur atriði er varða þetta mál eru til dæmis:

+ Aðgerðir eru of fáar og einhæfar. Auk tveggja mótmælagangna (sú síðari var þriðjungi minni en sú fyrri) er gripið til menningarvöku og fáránlegrar drykkjusamkomu 2. sept. sl. Smáupphlaup, svo sem alls óundirbúnar mótmælastöður vegna umhverfismálaráðstefnu NATO nú og NATO-vinaráðstefnu í fyrra, eru í sífellu endurtekin.

+ Ekki er unnið að því með árangri að tengja fólk daglegum störfum fyrir málstaðinn á milli aðgerða. Undirbúningur aðgerða er nær ekkert nýttur til að virkja fólk utan kjarnans. Oftast er hringt í samtök sem eiga fólk innan SH og þau beðin að "redda mannskap".



Vinafagnaður. Brésnef leiðtogi böðlanna í Kreml fagnar hér Fidel Castro frá Kúbu, hálfnýlendu Sovétríkjanna. Kúbustjórn hefur lengi gengið erinda sovésku heimsvaldasinnanna, t.d. í Afríku.

+ Hverfahóparnir eru lauslega skipulagðir, án stýringar og skipulagðra verkefna. Þar eru helst iðkaðar háloftaumræður sem snerta lítið vandamál og störf samtakanna. Hóparnir staðna og fæla frá sér fólk.

+ Allstór hópur manna hindrar sífellt að komist sé til botns í umræðu um starfshætti og stefnu SH - þeir merkja slíka umræðu sem "þras". Mikið er um að ekki megi ræða um það sem "allir eru sammála um", en samtímis fá skemmdarverkahópar eins og Fylkingin að tróna með fána og borða með sínum "einkaskoðunum" í aðgerðum á vegum SH.

Öllu þessu þarf að breyta á betri veg.

## STEFNUSKRÁIN

Á fyrstu árum SH uppúr 1960, höfðu Sovétríkin ekki þróast í það að vera afturhalds- og kúgunarríki á heimsmælikvarða. Á þeim árum var rétt að setja fram kjörorðin "Ísland úr NATO - herinn burt". Það gerðu SH, en þvældu sér um leið í blekkingarleikinn um "frið í heiminum" - frið sem átti að vera í sjónmáli meðan auðvald og heimsvaldastefna voru við lýði.

Á miðjum 6. áratugnum varð þróun Sovétríkjanna augljós og þau tóku að leita eftir heimsyfirráðum í krafti auðs og kúgunar - undir yfirskyni "alþjóðahyggju og sósíalisma"!

Það þarf nokkuð þor, mikinn misskilning eða þá vísvitandi lygastarfsemi til að reyna að sannfæra ísl. alþýðu um t.d. framferði Sovétríkjanna nú á tímum - í Angóla, Tékkóslóvakíu, í hafréttarmálum og víðar. Það þarf líka þor til að reyna að sannfæra ísl. alþýðu um að hernaðaruppbygging Sovétríkjanna eigi eitthvað skylt við "verkalýðsvöld og sósíalisma". Nei, nú dugar gamla kjörorðið ekki lengur!

## FYLKIÐ YKKUR UM RÉTTA STEFNU!

Ef verja á sjálfsákvörðunarrétt ísl. þjóðarinnar og berjast gegn heimsvaldaásælni, er barátta gegn báðum risaveldunum og hernaðarbandalögum þeirra ekki aðeins rétt, heldur lágmarksgrundvöllur Samtaka herstöðvaandstæðinga - breiðari en hann nú er.

Gegn þessu standa margir aðilar innan og utan SH. En hreyfing í rétta átt fer vaxandi. Aðgerðir SH 21. ágúst fyrir utan sendiráð Sovétríkjanna í Reykjavík sýndu baráttuna milli þessarra tveggja stefna. Miðnefnd SH tókst að mestu að sætta þær þá með lognmollukröfum og engri hvatningu um baráttu, eins og fámennið í aðgerðunum sýndi ljóslega.

Á landsráðstefnunni takast stefnurnar tvær á á ný. Höfuðatriðið verður að tryggja rétta fjöldastefnu og stefnuskrárbundna baráttu gegn risaveldunum.

# Auðmenn ...

Framhald af forsíðu

En hver er raunveruleikinn? Rennur arðurinn af vinnu verkafólks í iðnaði óskiptur í vasa þess? Nei, því fer fjarri. Íslenskt verkafólk býr við afar þröngan kost og kjör þess eru með því versta sem þekkist á vinnumarkaðnum - af öllu vondu. Uppbygging iðnaðarins er alfar sniðin eftir hagsmunum atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra - auðvaldsins á Íslandi. Auðherr arnir eru í þessum iðnkynningar leik til þess að gera vörur sínar girnilegri í augum almennings og auka við gróða sinn Þetta styður svo ASÍ-forystan og ýmsir "forystumenn" og "fulltrúar verkafólks" eru haf ir með í leiknum til að hann hafi enn meiri og betri áhrif.

Auðvaldsáróðurinn "íslenskt handa Íslendingum" miðar að þv að draga fjöður yfir stéttaand stæður þjóðfélagsins okkar, að reyna að efla stéttasamvinnuna alræmdu. En hver er þá afstað kommúnistanna?

Hin eina raunhæfa atvinnuuppbygging í þágu alþýðunnar fæst aðeins með harðri stéttabaráttu, þar sem bætt kjör, stjórnmálavald og næg atvinna sótt í hendur atvinnurekenda o ríkisvalds þeirra.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið hvetja því verkafólk að koma t liðs við sig og berjast raunhæ baráttu á grundvelli eftirfarandi kjörorða:

+ Barátta gegn innflutningi e lends auðmagns!
+ Full atvinna handa öllum - gegn öllum uppsögnum!
+ Næg atvinna þar sem fólkið býr - gegn lokun fyrirtækja og fækkun atvinnugreina!
+ Gegn samþjöppun atvinnugreina á fáa kjarnastaði og gegn byggðaeyðingu!
+ Lágmarkslaun a.m.k. 120 þús á mánuði - fullar vísitölubætur!